


IV. Winnipeg, Man. Nr. 3.

# Kaldeumenn hinir fornu.

LAND — RÚSTIR — LETUR.

Framhald.

Áður en ég fer lengra út í mál þetta, hlýt ég með fám orðum að minnast á tungumál þeirra, þessara fornu manna. Það hefir verið eins og menn hafi tekið það sem sjálfsagt, að "eins og allir menn séu afkomendur Adams og Evu," eins hafi í fyrstunni að eins verið eitt tungumál til í heiminum. Og ef að menn álíta þetta satt að vera, þá hafi tungumál þetta hlotið að vera annaðhvort hebreska eða þá móðurtunga hebreskunnar. Já, áður en turninn Babel (!!) var bygður, töluðu menn vissulega allir hið sama mál, og þetta mál var alt að einu fullkomið og málin á vorum dögum, að undanteknum nöfnum á nýjum hlutum og nýjum uppgötvunum (!!) Samkvæmt hinu heilaga innblásna orði var ekki hægt að fara lengra út í sakir þessar því að ef að menn leituðu lengra, þá fóru menn með því að niðurbrjóta ritninguna. En þegar sú skoðun fór að verða almennari, að ritningin væri þjóðsaga ein, þá fóru menn að skygnast lengra. Menn fóru þá að rannsaka málin fyrir alvöru og komust þá að alt annari niðurstöðu. Menn sáu þá, að því var eins varið með tungumálin eins og manninn, að þau fæddust, komust á fullorðins ár og til hárrar elli. Þau voru sum skyld og sum óskyld. Menn fóru þá að rekja saman þau, sem skyld voru, og gátu þá skift þeim í stóra flokka. Aðalflokkaskifting tungumálanna varð í þrjá flokka:

1. Beygjanlegu tungumálin og skiftast þau aftur í tvo flokka:
   a, Aryanska flokkinn og
   b, Semitiska flokkinn.

2. Agglutinative eða samanlímdi flokkurinn, eða túrönsku málin og
3. Einsatkvæðismálin svo sem kínverska og samkvæmt því er Max Muller segir, forn-egyftska o. fl.

Fyrsti flokkurinn er bæði stærstur og merkastur. Þar eru tungumál þjóða þeirra, er mentaðar eru kallaðar. Undir aryönsku deildina heyra nær öll evrópumál, gríska, latína, spænska, ítalska, franska, þýżka, enska, íslenzka, slafnesku tungumálin, og svo í Asíu sanskrít, tunga hinna fornu Persa o. fl. En til semitiska flokksins, sem á ekkert skylt við þessi fyrnefndu tungumál annað en það, að báðir flokkarnir hafa beygjanleg tungumál, heyra hebreska, arabiska, púnverska, aramæiska og seinnitíma kaldeiska.

Þessi mál öll beygja orðin, breyta einu hljóði í annað, hafa sérstakar myndir fyrir sagnir, nafnorð, lýsingarorð o. s. frv. En áður en þau komust á þetta stig, hafa þau hlotið að ganga í gegnum hið 2. stig, (hið samanlímda). Þar eru orðin reyndar sett saman, en þar er ekkert hljóðvarp og þar breytist ekki nema annað orðið, og það að eins lítilfjörlega. Þau tungumál eru því kölluð óbeygjanleg. Til þeirra heyra tyrkneska, mongólska, finska, ungverska, og eru þau stundum kölluð uralaltaiski-flokkurinn, því að miðpunktur þeirra virðist vera þar um.

En áður en þau komust á þetta stig sitt, hafa þau og öll önnur mál orðið að ganga í gegnum hið 3. og efsta stig, sem er einsatkvæðismál. Þar er engin, alls engin beyging orða; atkvæði er bætt við atkvœði án þess nokkur hljóðbreyting eða stafbreyting verði. Til þeirra mála teljast nú t. d. kínverska og fornegyftska.

Sumum kann nú að virðast það vera sönnun á móti þessu, að enn skuli vera til tungumál af báðum þessum efri og eldri stigum, en það er alls ekki svo. Tungumálafræðingar eins og t. d. Max Muller, geta skýrt það vel, hvernig á því stendur, að þessi tungumál hafa stöðvast hvert á sínu stigi. Þroskunin hefir hætt, málið hefir hætt að taka framförum. Yrði það of langt mál að telja þær ástæður hér upp.

Nú sjáum vér, að "Adam og Eva" hafa ekki getað talað neitt af hinum beygjanlegu tungumálum, þau hafa ekki einu sinni getað talað neitt af tungumálum 2. stigs, hinum samanlímdu. Tungumál þeirra hefir hlotið að vera enn þá ófullkomnara.

Þessi skifting tungumálanna hefir hjálpað mönnum ákaflega mikið, að komast fyrir uppruna og aldur hinna mörgu þjóðflokka mannkynsins. Menn geta nú séð, að þjóðir af hinni sömu móðurtungu hafa kvíslast um alla Norðurálfu löngu áður en söguöldin hófst. Þjóðir þessar eiga allar ætt sína að rekja til einnar móður-

þjóðaf, hinna fornu Aryana, er menn ætla að búið hafi einhverstaðar í hálöndum Mið-Asíu. Af stofni þeim veltust þjóðir suður á Indland og lögðu það undir sig, stofnuðu ríki og trúbrögð (Brahmatrú) og hófust til mikillar menningar; voru það:

1. Hindúar.
2. flokkurinn hljóp suður í hálendi Persalands og mynduðu þar ríki og trúbrögð—Zóróasterstrú.
3. á Grikkland.
4. á Ítalíu.
5. um miðbik Norðurálfu og alt vestur á Bretlandseyjar, eru leifar þeirra enn á Bretagne á Frakklandi, Írlandi, Skotlandi, Wales og Mön.
6. voru Teutonar, gotnesku þjóðirnar, er kvísluðust um Eystrasalt og bygðu Norðurlönd, Þýzkaland o. s. frv.
7. voru Slafar, er nú byggja Rússland, Polen og nærliggjandi lönd.

Þessar þjóðir voru allar frændþjóðir og tungumál þeirra öll sprottin af hinni sömu móðurtungu. Þegar þær breiddust út yfir löndin, fundu þær allstaðar þjóðir fyrir. Eins var það er þær komu í Euphratsdalinn, að þá voru þar fyrir þjóðir fornar, er töluðu mál þau, er heyra til hinum samanlímda málflokki. Það voru þjóðirnar "Shumiro Accadar." Höfðu þeir bygt dal þann ákaflega lengi.

Sunnan og vestan til í dalnum koma hebresku þjóðirnar fram; blönduðust þær við hinn forna þjóðflokk meira og minna og réðu konungar af hebreskri ætt stundum ríkjum þar. En fornþjóðin sjálf "Shumiro Accadar," var af turönskum uppruna, alt öðrum uppruna en Hebrear og óskild Aryönum. Ber öllum sögnum hinna turönsku þjóða saman um það, að þær séu komnar úr fjallandi einu miklu, er fornfræðingar ætla, að sé ural-altaiski fjallgarðurinn í Síberíu. Segja sögur þeirra frá fornri paradís í afskektum dölum, luktum inni af hamrafjöllum. Þar lifðu þær sælulífi, og hafði guðleg forsjón leitt þær þangað. Þegar þeir höfðu dvalið þar nokkur hundruð ár, þá vildu þeir fara að komast út þaðan, en fundu hvergi leið, þar til er smiður einn kom fram og kvaðst geta brætt klettana, því að þeir væru af málmi gerðir. Svo tóku þeir að kinda bál mikil og gátu svo búið sér til veg út úr dalnum. Bendir þetta á, að bústaður þeirra hafi verið þar, sem málmur er mikill í fjöllum.

## TRÚBRÖGÐ.

Ef vér hugsum um þá, þessa fornu íbúa Euphratsdalsins, þá verðum vér að hugsa oss þá fyrst á afarlágu mentunarstigi. Í fyrstu hafa þeir verið viltir sem dýrin í skógunum, naktir og klæðlausir,

með skinnfeldi um mitti, vopnlausir hafa þeir verið að öðru en því, er þeir gripu greinar og kvisti af trjánum að berjast með. Brátt fóru þeir að byggja skýli yfir sig til að skýla sér fyrir kuldanum og regninu, eða þeir höfðu hellra og holur til að búa í, þeir fóru að temja dýrin, og þó að margar aldir liðu, þá smáseig þó áfram hjá þeim. En alt í kring um sig sáu þeir öfl, sem þeir ekki gátu ráðið við, sem höfðu áhrif á líf þeirra, sum góð, sum ill, en þeir skildu þó ekkert í þeim. Sólin lýsti upp myrkur næturinnar og lét kornið vaxa á ökrum þeirra og eplin á trjánum handa þeim að éta; en sólin brendi líka stundum jörðina svo að eplin og ávextirnir skrælnuðu upp. Regnið var kælandi og svalandi og frjóvgandi jörðina, en stundum eyddi það þó öllu með flóðum. Vindurinn reif þökin af hreysum þeirra og braut niður eykurnar. Þetta voru alt *öfl*, sem gátu gert þeim bæði gott og ilt. Það yrði svo langt mál að skýra frá því, hvernig á því stóð, að þeir hugsuðu sér öfl þessi lifandi, að ég verð að sleppa því, en það vissa er, að þeir hugsuðu sér þau lifandi á sama eður líkan hátt og þeir voru lifandi og starfandi sjálfir, þó að þeir skildu ekkert í því. Þeir hugsuðu sér alla náttúruna lifandi: vindinn, regnið, sól og tungl, tré og grös, fljót og læki, hæðir, hóla og steina. Í öllu þessu, hverju fyrir sig, bjó einhver sérstakur andi. Þá voru andar á hverju strái, yfir höfði mannsins, í kring um hann, undir fótum hans, þeir léku um limu hans í vindinum (sbr. hebresku hugmyndina, að guð væri í vindinum og að guð væri í eldinum).

Þegar svona var nú ástatt, þá reið manninum mjög mikið á því, að geta aðgreint þessi góðu og vondu öfl og á einn eður annan hátt, að geta blíðkað þau og gert sér þau hliðholl og hjálpsamleg. Hann bæði óttaðist og hataði vondu öflin, en góðu öflin elskaði hann.

Frá þessum hugmyndum Shumiro Accada segir þetta konunglega bókasafn, er fannst í gömlu borginni Ninive, mjög nákvæmlega. Einnig höfum vér sögur af átrúnaði þeirra eftir grískan rithöfund frá fyrstu öld eftir Krist.

Þeir hugsuðu sér jörðina sem bát á hvolfi, og táknaði súðin í bátnum yfirborð jarðar, en holið þar undir var botnlaus pyttur, ginnungagap (ge), og bjuggu þar heilir herskarar af þessum máttugu öndum eður öflum. Yfir jörðinni (kia) hvolfdist himininn (ana) er skiftist í tvent: upphiminn, festinguna, með stjörnunum öllum, er snérust eins og á hjólgaddi um fjalltopp einn, ákaflega háan og átti að vera einhverstaðar norður af þeim; annar hluti himinsins var hinn lægri himinn, sem plánetur, sól og tungl gengu um eins og einhverjar lifandi skepnur. Sem andstæðinga þessara 7 pláneta, er

þeir hugsuðu sér sem góðar verur eða anda, trúðu þeir á 7 vonda anda, er þeir stundum kölluðu: „hina sjö skugga." En yfir öllum þessum öndum var andi himnanna: „Zi-ana" (af Zi = andi og ana = himin). Er hann þó oftast kallaður eingöngu Ana. Milli hins lægra himins og jarðar er gufuhvolfið. Þar ræður Im eða Mermer = vindurinn. Hann keyrir skýin áfram, hleypir storminum af stað hellir regninu niður, sem átti að vera geymt á himnum uppi. (Alveg eins og Gyðingar hugsuðu sér, að guð tæki frá hlera á himnum til þess að hella regninu niður).

Úthafið hugsuðu þeir sér sem breitt og mikið fljót, er rynni í hring utanum röndina á þessum hvelfda bát (jörðina). Í sæ þeim byggir Ea, hinn mikli andi jarðar og allra vatna. Er hann ýmist hugsaður í fiskliki og á hann að synda um sæ þenna, eða þá, að þeir hugsuðu sér hann sigla um hafið á skipi einu miklu kring um alla jörðina til þess, að gæta hennar og varðveita hana. (Samanber: „Og andi guðs svam yfir vötnunum," 1. bók Mós.)

Þá eru andar jarðarinnar og eru þeir ákaflega margir, en ekki kveður þó eins mikið að þeim og hinum sjö öndum undirdjúpanna. (Maskim). Er aðsetur þeirra í iðrum jarðar, en þó hljómar rödd þeirra í hæðum himnanna. Þegar þeir vilja geta þeir flogið um allan geyminn, og eru illa þokkaðir bæði á himni og jörðu. Þeir hafa yndi mest af því, að umhverfa gangi náttúrunnar, að koma á stað jarðskjálftum, vatnsflóðum, ofsaveðrum og því líkt. Þó að þeir séu bornir og barnfæddir í afgrynninu, þá eru þeir þó fremur óhlýðnir undirheimaguðnum Mulge og líkjast þeir í því bræðrum sínum í hinum lægra himni, sem nauðugir hlýta yfirráðum Anu og oft kallast "uppreistarandar." (Sbr. frásöguna í biblíunni um það, er englarnir gerðu uppreist á móti guði). Gerðu þessir andar á himnum einu sinni uppreist, formyrkvuðu tunglið, og lág nærri, að þeir vörpuðu því af himni niður. Auk þessara 7 voðalegu anda undirdjúpanna voru heilir herskarar vondra anda, sem ofsóttu mennina á allan hátt í öllum mögulegum myndum. Þeir voru einlægt á varðbergi að leitast við að gera ilt af sér, bæði líkamlega og eins með því, að vekja ófrið og deilur. Þeir áttu að reka soninn úr húsi föður síns, að valda því, að konur ólu ekki börn. Þeir áttu að hafa stolið dögum af himni, er þeir gerðu að óheilladögum. Þeir falla niður, sem regn af himni, þeir spretta upp úr jörðinni — stelast hús úr húsi — dyr og hurðir geta ekki stöðvað þá, Þeir skríða inn um luktar dyr (sama trú hjá Gyðingum, sem sést þegar Kristur kom að luktum dyrum til postulanna). Þeir blása inn um þakið með vindinum. Þeir eru alstaðar, uppi á fjallatindum og í hinum sóttnæmu

fenum við sjóinn, en einkum haldast þeir þó við á eyðimörkum, (sbr. ritninguna, er segir að að andarnir fari í auða staði). Allir sjúkdómar heyra til flokki þessum (því að sjúkdómar voru hugsaðir sem andar). Mestur og verstur er þó Namtar eða Dibbara = pestin og næstur honum Idpa = hitaveiki og nokkurs konar sturlun.

Óljóst er það, hvort þeir hafa hugsað sér nokkra sæluvist dáinna manna, því að allir dánir menn áttu að fara í Arali og reika þar í myrkri. Ríkti þar drotning ein og var Namtar, pestin, ráðgjafi hennar. Mikla trú höfðu Shumiro Accadar á töframönnum, er gátu náð valdi yfir hinum vondu öndum og látið þá kvelja menn og deyða.

Það hefir því ekki verið neitt sérlega sælufult lífið fyrir þessa menn, alstaðar máttu þeir búast við illum öndum, og gátu eiginlega hvergi leitað skjóls eður varðveislu, því að andar þessir hlýddu í rauninni engum guði. Bænir og fórnir voru ekki til neins, þeir gengust ekki fyrir því, andarnir, höfðingja sínum voru þeir óhlýðnir, en eitt var þó, sem helst dugði við þá, og það voru særingar. Hefir í bókasöfnum þessum, er áður er getið, fundist ákaflega mikið af særingarformúlum.

Þá voru og til góðar verur; það var Ana, uppheimsguðinn, spekinnar guð, og Ea, guð jarðarinnar og vatnanna. Einkum var það Ea, sem hinir vondu andar óttuðust. Til hans leituðu menn því helst hjálpar, hann héldu þeir að bæði vildi og gæti verndað þá, andi hans svam yfir vötnunum (eins og segir í ritningunni) og hann vissi alla hluti. Þó hugsuðu þeir sér hann of háleitann og mikinn til þess, að þeir væru sífelt að nauða á honum með bænir þeirra, og sökum þess bjuggu þeir sér til í huga sínum meðalgangara milli þessa góða guðs og mannanna. Var það Meri-Dug (eða Mirri-Dugga) sonur Ea og Damkina (jarðarinnar). Hann átti að flytja bænir manna fram fyrir föður sinn Ea, og segir Ea honum hvað gera skuli til að afstýra hættunni, veikinni eða ráða bót á því sem illa fer. En ósköp hefir hugsnnin verið barnaleg sem sjá má á þessari særingu móti hinum vonda anda Namtar. Hún byrjar með lýsingu á andanum, sem tekur manninn fanginn, brennir hann sem eldur, svo hann engist saman af kvölum, þó að andinn hafi hvorki hendur né fætur. Svo tala þeir saman, Ea og sonurinn, og segir Ea: ‚Kom þú hingað, sonur minn Meri-Dug. Tak leðju og hnoða af líkneski eftir mynd andans, legg svo manninn niður er þú hefir hreinsað hann, og legg myndina á kvið hans, svo að Namtar sjái sína eigin mynd og mun hann þá hræddur verða og flýja burtu.

Þetta hefir nú verið hin eldri trú þeirra þessara gömlu manna, en eins og alstaðar annarstaðar hefir trúin breyst og hjá þeim varð

hún smátt og smátt veglegri. Guðir þeir sem voru manninum velviljaðir fóru að fjölga. Auk þeirra bættust við: vindurinn, með hinu lífgandi regni, sólin og eldurinn og tunglið. Sólin eyðir myrkrinu og fælir burtu hina vondu anda. Sólarguðinn verður því smátt og smátt hjá þeim máttugri og máttugri, hann verður hinn æðsti dómari á himni og jörðu, það er hann, sem þekkir sannleikann frá lyginni, hann eyðir lyginni, eyðir og hindrar alt hið illa.

Að trúin hjá þeim hafi framförum tekið má sjá glögglega á hinni svokölluðu "3ju særingabók" þar verða særingarnar sára líkar iðrunarsálmum Davíðs gamla og er auðséð, að þá skilur ekki mikið Davíð gamla og þessa heiðnu Kaldeumenn. Þannig ákallar Kaldeumaðurinn guð sinn og játar fyrir honum syndir sínar, ber fyrir sig vanþekkingu sína og biður guð sinn um miskun. Hann biður ýmist til karlguðs eða kvennguðs. Ég skal koma með dæmi, útdrátt úr "umkvörtun hins iðrandi hjarta" svo heitir sálmur sá: "Ó minn guð still þú reiði hjarta þíns......Ég et fæðu reiðinnar og drekk af bikar angistarinnar. Ó minn guð, mínar syndir eru miklar, ákaflega miklar. Ég syndga og veit ekki af því. Drottinn hefir í reiði hjarta síns steypt yfir mig sturlaninni. Ég ligg á jörðinni flatur og enginn útréttir sína hönd mér til hjálpar. Ég hrópa en enginn heyrir. Ég er uppgefinn, kúgaður og enginn vill veita mér hjálp, ó! guð minn, þú sem þekkir hið óþekta vertu miskunnsamur. Ó hve lengi ætlar þú guð minn að hrinda frá þér þjóni þínum. Ó! kom þú og hjálpa mér og tak mig þér við hönd mitt í hinum æðandi vötnum. Ég drýgi syndir en lát þær snúast og verða að blessun, ég fremyfirtroðslur lát þú vindinn feykja þeim burt. Guðlastanir mínar eru margar ríf þær í sundur sem klæði. Ó guð sem veist alt fyrirfram, mínar syndir eru sjösinnum sjö, fyrirgef þær.

Ef að menn hefðu ekki vitað að þetta væri eftir heiðinn Kaldeumann, þá hefðu menn sagt að þarna hefði fundist nýr sálmur eftir hið heilaga! sálmaskáld Davíð konung; svo er hann líkur sálmum hans að hugsun og orðfæri.

Þetta hefir nú verið trú hinna elstu íbúa Euphratdalsins, mannanna sem bjuggu þar áður en semitiski flokkurinn kom þangað einhvað að suðvestan; og hefir trú þessi haldist við meira og minna fram á daga Gyðinga. Nú lifir trú þessi enn þann dag í dag hjá miklum þorra túrönsku þjóðanna í Síberíu og á hálendum Miðasíu. Alt eru andar hjá þeim. Tréð, steinninn, vindur, regn, fjöll, vötn, sverð, spjót, örvar, bogar, alt hefir sinn anda. Þær þekkja enga tilbeiðslu þessar þjóðir, sem eru á lægsta stiginu; þær þekkja enga siðfræði, en alt eru særingar; þær hafa enga presta heldur særinga-

menn. En eins og trúin var farin að verða göfugri hjá þessum gömlu mönnum upp á síðkastið, eins er hún orðin það líka hjá þeim turönsku þjóðunum, sem lengst eru komnar svo sem Mongólum og Manshurum. Þeir láta einn andann vera æðstan allra er þeir kalla "himin", alveg eins og þessir gömlu Shumiro Accadar báðu til Ana, og Kinverjar til Tien.

---

# MÓÐUR-ÁSTMÁL.

Eitt guðlegt orð—það orð, sem eg ei gleymi
í æsku þegar komið hjá mér inn,
æ verður stöðug stjarna sú í heimi
í stríði og þraut, er leiðir huga minn.
Það lærði' eg fyrst við ljúfrar móður hjarta,
er laungum beinti mér á fagra braut,
Og lyfti hug á himinveginn bjarta
með helgri blíðu, gegnum sorg og þraut.

Það var það orð, með ást og hreinni gleði.
að æfa það sem gott og fagurt er.
En láta ekkert illt í beisku geði
um æfidaga hafa vald á mér.
En oft hef ég þó fallið frá þeim vegi
og framið margt. sem reyndar vildi' eg ei.
En aldrei samt frá æsku minnar degi
orðið guðlegt máði tímans fley.

Orðið: ljós, það stendur bjart í stafni
og stráir geislum myrka jarðar-leit.
Orðin fögur: fram í drottins nafni,
æ fleyta mér um lífsins öldu-reit.
Orðið: frjáls, mig örvar til að sýna
eldlegt fjör og táprík frægðar spor.
Orðin: barn mitt. birtu skoðun þína,
í bernsku þegar gaf mér andlegt þor.

Eitt guðlegt orð, af góðrar móður vörum,
til gæfu leiðir manninn lífsins braut.
Eitt guðlegt orð, í köldum lífsins kjörum
æ kennir manni að sigra tímans þraut.
Eitt guðlegt orð sem æskan ástrík nemur
Um æfidaga gleymist manni seint.
Eitt guðlegt orð, af sannleiks sefa er kemur
í soll' lífsins geymir hjartað hreint.

JÓN KLÆRNESTED.

# Fra Washington.

Ræða eftir fríþenkjarann

SAMUEL P. PUTNAM,

Haldin fyrir þingnefnd í Washington í Marz síðastl.. í málinu um að koma guði og biblíunni inn í stjórnarskrá Bandaríkja.

---

[Niðurlag.] Nýmæli þetta vill setja Jesúm inn í stjórnarskrána, sem drottinn og herra. En þá spyr ég enn: Hver er hann þessi Jesús? Hinn kristni heimur hefir ekki enn komið sér saman um, hver hann sé eða hvað hann sé, og hafa menn þrefað um það öldum saman. Er hann guð, engill eða maður? Var hann nokkurn tíma til, og hafi hann verið til, hvað sagði hann og hvað gerði hann? Var hann gjöreyðandi (anarchist), socialisti, níhilisti eða trúleysingi? Hvað á að setja sem eðli og eiginleika hans í stjórnarskránni? Á að setja hann þar inn eftir því, sem Mattheus hefir hugsað sér hann, eða Jóhannes eða Páll postuli. Á að setja hann þar inn sem Gyðing, eða sem orðið (logos), eða sem hinn nýja Adam? Er hann þjóðsöguhugmynd ein, eða yfirnáttúrlegur? Vér heimtum fulla grein á þessum atriðum. Vér heimtum að vita, hvað vér erum að gera. Að setja Jesúm inn í stjórnarskrána, er að gera stórkostlega breyting á stjórninni. En í hverja átt gengur sú breyting? Það dugar ekki að eiga undir kasti, hvað uppi verður í jafnmiklu byltingamálefni.

Það er engin sönnun til fyrir því, að maður eins og Jesús Kristur hafi nokkurn tíma lifað. Það eru engar sagnir til um hann, er nokkurs séu nýtar, fyr en að minsta kosti 125 árum eftir dauða hans. Sagnir þær, sem vér höfum, vitum vér að eru fullar af innskotsgreinum og mótsögnum. Vér höfum ósamhljóða sagnir um ætt hans sagnir, sem með öllu er gersamlega ómögulegt að koma saman. Fæðingardagur hans og ár er óvíst. Hafi hann nokkurn tíma lifað, þá er ómögulegt að vita hvað hann sagði eða hvað hann gerði. Kristnir fræðimenn vefengja þessar sagnir. Hin nýja útlegging biblíunnar kastar burtu mörgum setningum, sem áður hafa verið taldar góðar og gildar. Menn eigna Kristi að hafa sagt eitt og annað, sem stríðir á móti siðgæðishugmyndum nútímans. Hann sagði t. d.: "Hugsið eigi, að ég sé kominn til þess, að senda frið á jörðu. Ég kom eigi til þessa, að senda frið, heldur sverð." Viljum vér nú hafa þetta voðalega orðbragð í stjórnarskrá lands þessa? Enn segir hann: "Ef að einhver kemur til mín og hatar ekki föður og móður og konu og börn og bræður og systur og sitt eigið líf, sá hinn sami getur ekki verið minn lærisveinn. En þessa mína óvini, sem

ekki vildu láta mig ríkja yfir sér, þá skuluð þér færa hingað og deyða þá fyrir mér. Hver sem trúir og verður skírður, hann mun hólpinn verða, en hver sem ekki trúir hann mun fordæmast " Eigum vér að setja þessar setningar inn í stjórnarskrána, setningar sem blása í brjóst mönnum morði og manndrápum? Afleiðingin af þessum kenningum hefir orðið sú, að heimurinn hefir verið gerður að vígvelli og milliónir manna hafa deyddar verið. Viljum vér gjöra krossmarkið aftur á ný að verkfæri bálfara og brennu? Eigum vér að hafa það til þess, að varpa mönnum í dýflissur til þess, að pína þá þar og kvelja? Ef að vér setjum Jesúm inn í stjórnarskrána, sem hið æðsta siðferðislega vald, þá hljótum vér að hlýða hverju boði hans. Það verður þá ekki nóg að vér heimtum trúna, heldur verðum vér að heimta skírnina, og skírnin verður þá að vera skilyrði fyrir því, að geta orðið borgari. En hvaða skírn? Þannig gengur það í það óendanlega. Getið þér nú eigi séð heimskuna í nýmæli þessu? Í hvílík feikna vandræði mundi það ekki steypa oss? Sjáið þér nú eigi hve vitrir höfundar stjórnarskrárinnar voru að útiloka með öllu trúna úr stjórnarskránni og gjöra þannig stjórnarskrána að verkfæri friðarins, í stað þess, að gjöra hana að verkfæri styrjalda og blóðsúthellinga? Getum vér snúið bakinu við jafngóðu og heillaríku dæmi, sem hefir aflað þjóðveldi voru aðra eins farsæld og frægð og raun hefir á orðið?

Reynslan hefir kent oss það, að mönnum er ómögulegt, að hugsa eins í trúarefnum, og saga trúarinnar sýnir það, að trúin verður aldrei ein og hin sama á jörðunni. Valda því hvatir og fordómar einstaklinganna. En er það þú ekki betra, að láta hvern einstakan mann sjálfráðan, að skera úr þessum spurningum? Á móti nýmæli þessu eru ótal ástæður, ástæður frá hálfu frelsisins og réttlætisins, frá hálfu heimspekinnar og vísindanna, frá hálfu sögunnar og bókmentanna. Það er alla vega ilt og skaðlegt. Það er skaðlegt fyrir ríkið, skaðlegt fyrir trúna, skaðlegt fyrir kristnina. Í rauninni er það hið versta, sem fyrir kristnina gat komið bæði sem trú og sem stofnun.

Það eru áhrif kristninnar, sem geta verið til góðs fyrir heiminn, en ekki myndugleiki hennar. En áhrif og myndugleiki er hvað öðru gagnstætt og getur ekki farið saman, því að hvað eyðileggur annað. Myndugleikinn er boð, skipan, sem ekki er hægt að skjóta undir dóm skynseminnar. Myndugleikinn heimtar skilyrðislausa hlýðni. Hann segir blátt áfram: "Þú skalt," og þar með er búið. Myndugleikinn getur bæði verið bygður á þekkingu og á trú. Hann getur verið réttlátur eða ranglátur í eðli sínu, en sem myndugleiki

eingöngu, er hann nauðung fyrir þann sem hlýða skal, og vitið má þar ekkert um segja. Myndugleikinn lýsir yfir skipan sinni og skipanin er lagaboð; en á bak við lagaboðið stendur aflið. Þannig er varið myndugleika ríkisins.

En áhrifin aftur á móti skýrskota til skynseminnar. Þau reyna að sannfæra með verkum og sönnunum, að upplýsa og fræða. Þau vekja tilfinningarnar með söng, list, skáldskap og málsnild. Menn geta haft áhrif með vísindum, með hugsunarréttri framsetning efnisins, með fegurð. Áhrifin laða menn, vekja menn og hvetja, sannfæra og snúa. Þau verka ekki eingöngu hið ytra, heldur einnig hið innra. Þau eru ávalt í samræmi við skynsemina. Vér tölum ekki um myndugleika kvæðis eins eða myndar, eða líkneskju, eða mikilfenglegrar byggingar, eða fagurrar útsýni, heldur um áhrif þessara hluta. Sálin verður að grípa þau, vitið að skilja þau, og viljinn að vera fús á að láta leiðast af þeim.

Þannig geta menn séð, að áhrifin eru algerlega gagnstæð myndugleikanum, að myndugleikinn útilokar áhrifin og að áhrifin útiloka myndugleikann. Að svo miklu leyti sem kristnin neytir myndugleika, þá útilokar sá myndugleiki áhrifin.

Þegar menn athuga nú þessar skýringar, getur þá nokkur vafi verið á því, hvernig kristnin ætti að vinna í heiminum. Hún ætti að vinna með áhrifum en ekki með myndugleika. Hún ætti að vera svo laðandi og sannfærandi sem mögulegt er. Hún ætti að keppast fremur öllu öðru eftir því, sem er skynsamlegt og fagurt. Hún ætti að ganga í bandalag við vísindin og mannkærleikann. Hver sem kristinn er eða kristni tekur, ætti að telja hana sinn dýrmætasta fjársjóð. En ef að menn eru með brögðum neyddir til þess að verða kristnir, þá er kristnin ok um háls mönnum, hún er þeim þá fangaklefi. Kristnin getur verið lifandi afl einungis hjá þeim, sem skynsemin og upplýsingin hefir sannfært um, að þeir skyldu taka hana. Hvar sem kristnin verður valdboðin hugmynd, þá hættir hún að flytja mönnum von og gleði og lífgandi afl. Hún verður þá eintómt valdboð, án sannleika, fegurðar eða kærleika, og hverjum manni, sem þannig er trúaður, væri eins gott að hafa einhverja aðra trú, eða þá alls enga trú. Þetta, að fá kristninni myndugleikann að vopni, er því hið sama og að fletta hana öllu ágæti sínu, öllu því sem laðar menn að henni, öllu sannfæringarafli hennar, en gjöra hana að afli — eingöngu að afli.

Hið eina mark og mið nýmælis þessa er það, að vopna kristnina myndugleikanum, en þá eru eru og eyðilögð áhrif hennar, og sannarlega er ómögulegt að veita kristinni trú meira og voðalegra

svöðusár, en þetta; eða gjöra hana hatursiegri og viðbjóðslegri í augum manna, en með þessu. Ef ég væri kristinn maður, þá mundi ég standa á móti nýmæli þessu af öllum mínum ítrustu kröftum. Og ást mín til kristninnar myndi knýja mig meira, en nokkuð annað til mótstöðu þessarar. Ég skyldi tala til yðar á þessa leið: "Kristin trú er of góð, of göfug, of guðdómleg til þess, að leggja hana í jafn grimdarfult félag, sem þetta félag við aflið. Ég get ekki séð hvernig nokkur kristinn maður, sem trúir því, að kristin trú geti og eigi að frelsa heiminn, getur haft aðra skoðun. Því að, hvernig getur kristin trú hjálpað til þess, að gjöra manninn sáluhólpinn með öðru, en hans eigin frjálsu samþykki? Hvernig getur hún gert nokkurn að betri manni með því, að lemja hann með svipuhöggum og gjöra hann að þræli?

"Stjórnin er afl, en ekki sannfæring" segir Washington og að setja kristna trú inn í stjórnarskrána er að gjöra trúna að afli, en ekki sannfæringu, að gjöra hana að valdboði en ekki áhrifum; það er að fletta trúna öllu því, sem getur laðað menn að henni, að setja hana á bekk með líkamlegu afli og gjöri hana að stórri verkvél í staðið lifandi andlegs kraftar.

Þannig geta menn séð, að frá sjónarmiði kristinnar trúar er nýmæli þetta óhafandi. Það setur trúna í fjandskap við réttlætið, skynsemina, upplýsinguna og allar andlegar framfarir. Eru kristnir menn reiðubúnir og fúsir að gjöra það? Eru þeir reiðubúnir að svívirða og niðurlægja sína eigin trú?

Hver yrði afleiðingin af nýmæli þessu? Mundi það gjöra menn heiðarlegri eða meira sannleikselskandi eða einlægri og betri? Nei! því að það verður ekki gjört með valdboði.—En þetta nýmæli mundi þvert á móti og óhjákvæmilega gjöra menn að enn meiri hræsnurum og lygurum, óþokkum og hugleysingjum. Það yrði nóg af mönnum, sem segðust vera kristnir, þegar það væri að lögum orðið; nóg af mönnum, sem játuð kristni með vörunum "en væru" að innan kalkaðar grafir." Hver, sem sækti um embætti, mundi kalla sig kristinn. Ó! hvílík endurlífgun trúarinnar mundi það ekki verða!! hvílíkur troðningur að ná i hin æðstu sæti!! Viljum vér í sannleika hleypa á stað öðru eins flóði af hræsni, óþokkaskap og svívirðu? Viljum vér gjöra trúna að hlífiskildi svika og pretta? Eigum vér að troðfylla kirkjurnar af mönnum, sem hræsna og smjaðra? Eigum vér að gjöra altarið að verkfæri mútu og siðspillingar?

Mig undrar það stórlega, að einmitt sjálfir kristnu mennirnir skuli ekki hikiaust hafna nýmæli þessu, eins fljótt og hægt er, að

þeir skuli ekki kasta því með fyrirlitningu af virðingu fyrir sinni eigin trú. Er ástand þeirra svo vonlaust, að þeir þurfi að kasta skynseminni, sönnunum öllum, sannfæringu, öllum siðgæðisöflum, öllum góðum hvötum og grípa til sverðsins? Er þetta þeirra síðasta von? Er kristnin orðin svona veik og rotin? Hefir hún tapað svo haldi sínu á skynseminni, að hún neyðist til þess, að neyta aflsins? Allur hinn mentaði heimur hlýtur að hrópa út nýmæli þetta, sem í eðli sínu er svo grimdarfult og villimannalegt. Það mundi gjöra stjórnarskrána að gröf frelsisins. Það mundi tæta í smásnepla "Declaration of Independence". Það mundi fleygja í sorpið hinum göfugu hugmyndum stofnanda þjóðveldisins.

Ég tala hér sem amerikanskur borgari, en hvorki sem trúmaður eða vantrúarmaður. Ég kem hingað til þess, að veita harðstjórninni mótstöðu, en ekki trúnni. Raddir hinna miklu manna í hinni fyrri sögu þjóðveldis þessa eru með mér. Öll saga mannkynsins er með mér, allar kenningar vísindanna og heimspekinnar. Sorgarleikur hins liðna tíma varar oss við því, að vér skulum gæta vor vel og stíga ekki þetta skref aftur á bak. Ég tala máli frelsisins réttlætisins og als þess, sem best er og göfugast í trúnni sjálfri. Ég tala máli rikisins, að menn skuli ekki vanbrúka hið feiknalega afl þess. Því að þegar afleiðingar geta orðið jafn voðalegar, þá getur riki og stjórn aðeins orðið heillavænlegt og affarasælt mönnum með því að því sé beint og beitt í sína upprunalegu stefnu. Stjórnin getur verið ágætur þjónn, en einnig óttalegur húsbóndi. Stjórnin getur ekki verið fulltrúi guðs, því að guð játa allir að enginn skilji og að hann sé ofar allri mannlegri skynsemi. Vér getum ekki lýst honum, jafnvel ekki hugsað oss hann. Stjórnin er gjörð af mönnum og handa mönnum. Hún er takmörkuð í gjörðum sínum. Hún er miklu fremur negativt en positivt afl. Hún bannar meira en hún býður. Hún neyðir en mentar ekki......Ef að kristnin getur ekki gengið stigu friðarins, en þarf að þrífa sverðið í hönd sér og gengur í félag við aflið, þá hlýtur hún að fara sömu förina sem harðstjórnir liðinna tíma. Hún hlýtur þá að forganga.

---

Vér setjum hér athugasemdir við fyrirlestur séra Nielsar Þorlákssonar. Athugasemdirnar eru eftir ómentaðan bóndamann, sem alla æfi sína hefir unnið baki brotnu, sem menn segja, og aldrei hefir á skóla gengið. Hann er kannske sparlega upplýstur af hinum heilaga anda kyrkjumannanna, en hann virðist hafa fullan mælir af guðs anda, skynseminni; að minsta kosti verða ástæður klerksins léttvægar fyrir honum. Á þessu geta menn séð, hvernig menn, sem

klerkar kalla mentunarlausa, lítt hugsandi og lítt skrifandi, geta kollvarpað ástæðum þeirra kyrkjumannanna, þó að klerkar hafi varið árum saman til þess að læra það, hvernig þeir ættu að fara að flækja og verja þessar gömlu, og ég vil segja heiðinglegu trúarskoðanir sínar. — Athugasemdirnar verða á við fullkominn fyrirlestur að lengd.

## Athugasemdir

við fyrirlestur séra N. Steingríms Þorlákssonar "Um guðdóm drottins vors Jesú Krists," í 'Aldamótum' 1891.

Eftir Jónas Kortson, Mountain, N. D.

Af því skorað var á mig sem vantrúarmann á kyrkjukenninguna, um guðdóm Krists, að lesa fyrirlesturinn með athygli og bera hann vandlega saman við Nýjatestamentið, til að sjá, hvort hann ekki með rökum sannaði guðdóm Jesú, þá gerði ég það. En ekki var ég kominn langt, er ég sá skýin sortna á himni hans. Því réðst ég í að gera athugasemdir við fyrirlesturinn, til þess að geta sýnt álit mitt á honum, og ef ske kynni að einhver kyrkjumaðurinn vildi lesa þær, og vegna "guðs sannleika" athuga hvað sannleikur er. Því orþódoxían hefir haft heiðinglegar kenningar um Jesú, eins og 26. P.sálm. sýnir; þar segir: "Heiðingjar halda gjörðu | hjáguðir þeirra senn | börn ættu alin á jörðu | eins og holdlegir menn." Og þetta hefir þrenningarkyrkjan verið að kenna um Jesú Krist síðan á Niceu þingi, er sett var 325 e. K., er Athanasíus biskup gat haft Constantin keisara mikla til að lögbjóða guðdóm Jesú, og var útlegðar dómur lagður við ef ei var hlýtt. Síðan var þetta trúboð um heiminn rekið með sverði, eldi og hótun helvítis kvala um alla eilífð, þeim er eigi trúðu. Og þó eru klerkar þessa trúboðs svo óskamfeilnir, að kenna það söfnuðum sinum, að fyrir guðdómskraft Jesú hafi þessi "sanna" trú breiðst út um heiminn, þvert ofan í sögguna og samvisku sína, ef hún er nokkur til. Þetta sýnir kærusemi þeirra í embættinu.

Um yfirnáttúrlega kenningu fyrirlestursins skifti ég mér ekki, því allur fjöldi manna veit nú, að hún er til orðin af vanþekkingu á náttúrunni, og er því nú sem lík, dauð, köld og stirðnuð. Það eru tilvitnanirnar í Nýjatestamentið, sem ég geri athugasemdir við, og á eftir sýni hvað biblían kennir um guð og Jesú.

Við hverja grein, tekna úr fyrirlestrinum, stendur: Fl., sem á að lesast: Fyrirlesturinn; en við athugasemdirnar stendur: Sv., er lesist: Svar.

Fl. " Hann talar um lifandi vitnisburði allra sanntrúaðra, að Kristur hafi verið meira en maður."

Sv. Er nokkur sanntrúaður nema hann játi guðdóm Jesú? Aldeilis ekki. En séu klerkar að fá svo kallaða vantrúarmenn í söfnuðina, má þá slá af guðdómi Jesú, að hann hafi að eins verið meira en maður? Þetta hefir ekki hitt mig, því ég var fátækur og því ekki boðið í hið kristilega félag. En hafi Jesú verið meira en maður, hefir hann heldur ekki dáið, því guðfræðin segir um englana, að þeir séu æðri verur og ódauðlegir.

Fl. " Heill verður enginn með neina guðstrú, nema guðstrú hans verði að Jesú trú."

Sv. Það er mín skoðun líka, að Jesús hafi haft trú vegna vitsvöntunar, því sá sem veit þarf ekki trú. Og guðfræðin kennir að það sé guð einn, sem hana hafi ekki, því hann viti alt.

Fl. " Guð er í Kristi opinberaður. Hann er opinberari föðursins, ef hann ekki opinberaði oss föðurinn, eða ef vér fyrir hans opinberun fáum ekki þekking á föðurnum, þá fáum vér aldrei þekt föðurinn, því Kristur segir: Enginn þekkir föðurinn nema sonurinn og sá sem sonurinn vill það auglýsa."

Sv. Það er sérstaklega á einum stað í Nýjatestamentinu, sem guði er lýst ótakmarkanlega góðum (Matth. 5.): "En ég býð, að þér elskið óvini yðar, blessið þá sem yður bölva, gjörið þeim gott sem hata yður og biðjið fyrir þeim sem rógbera yður og ofsækja," o.s.frv. Svona kærleiksríkur guð var áður óþektur, og svona kærleiksríkan guð kennir ekki þrenningarkyrkjan, heldur að hann elski þá sem elska hann og hlýða öllum hans boðum, því á undan í sama kapítula er hótun helvítis við að líta konu ástaraugum, ef þau séu látin vera í höfðinu, og flestir vita, að slíkt getur komið fyrir ósjálfrátt, t. d. að maður kæmi í hús, er forkunnar fögur kona héldi hrífandi ræðu og framburður hennar og öll hegðan væri samsvarandi fegurðinni og maðurinn, er girnist hana, eigi tvo kosti fyrir höndum: að stinga úr sér augun svo að hann sjái aldrei neina fegurð framar, eða fara til helvítis að öðrum kosti. Þessi kristindómur sýnist fremur mislitur. En sumt af grobbi því, er Nýjatestamentið ber Jesú fyrir, sýnist oss vantrúarmönnum of prestslegt, til þess að Jesús hafi talað það, því guðspjöllin sýna, að hann var enginn prestavinur.

Fl. "Á þeim degi munu margir segja til mín: herra, herra, höfum vér ekki í þínu umboði kent, rekið djöfla út og gert mörg kraftaverk. En ég mun segja til þeirra berlega: aldrei þekti ég yður, farið frá mér illgjörðamenn (Matth. 7) Gáið að því, hvað liggur í þessu. Á dómsdegi segist hann muni tala við þá, sem til-

heyrðu honum hér að eins [illegible] kveðnu. Hann segist aldrei hafa þekt þá og þess vegna eigi þeir ekki heima hjá sér í himnaríki. Hefir sá sem er að eins maður leyfi til að tala þannig?

Sv. Það þarf ekki að segja við höf Fl.: hver ert þú sem annarlegan þjón dæmir? Því ef kyrkjan er sett gagnvart biblíunni til að sjá, hvað hvor um sig kennir, verða þær mjög óskildar. Ritningin öll nefnir einn einasta guð og engan guð til nema hann. Kyrkjan segir það ósatt, með því að segja að guð sé þríeinn. Biblían lætur skíra þá, sem voru fullþroska og því sjálfviljugir báðust skírnar. Kyrkjan þar á móti skírir meðvitundarlaus ungbörn, og lætur hina fullorðnu halda uppi svörum fyrir þau, og þetta þykist kyrkjan hafa úr ritningunni. En að 14 árum liðnum, er þessi ungbarnaskírn orðin ómerk og ónýt, orðin heiðni, þá þarf aftur að kristna þau með fermingunni, án vatns og sérstakra votta, einungis að þau sverji sig undir hinar biblíugagnstæðu trúarjátningar kyrkjunnar. Þetta dugar þar sem trú og kyrkja er valdboð, en síður þar sem menn eru frjálsir að hugsa, trúa og tala. Því eru prestar vorir sárir yfir, að geta ekki haft þau bönd á löndum sínum, sem haldi þeim um aldur og æfi blindum í kyrkjuprísundinni. Þetta sýnir og sannar það, hvað kyrkjan í anda og sannleika hefir Jesúm fyrir drottinn sinn og guð! Og ef dómsorð (Matth., 7, 23) hafa nokkuð að þýða, þá eru það þrenningar kyrkjunnar sem þau hvíla á. Því dæmir höf. Fl. sig og sína kyrkju, og yrði bókunum nokkurn tíma flett upp, þá mundi höf. Fl. með öllum þingheimi standa höggdofa og segja: við höfum þá slegið okkur sjálfir. [Framh.]

---

## Fleiri kaupendur.

Já, miklu fleiri kaupendur viljum vér fá að Dagsbrún. Og því bjóðum vér þau kostaboð, að hver sem sendir oss $1.00 fyrir yfirstandandi árgang blaðsins, fær allan síðasta árg. ókeypis, og auk þess, ef óskað er, fjóra þýdda og frumsamda fyrirlestra, — alt fyrir að eins einn dollar. Þeir sem útvega oss nýja kaupendur, fá í ómakslaun 25% af hverjum nýjum, fyrirframborguðum kaupanda. Send til Íslands og fyrirfram borg. hér, kostar Dagsbrún 75c.

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri: Magnús J. Skaptason.
648 William Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður: Magnús Pétursson.
709 Alexander Ave. — Box 305.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.